a Dyrdarſáligt) þ heyrer Gude er dyrdligt/ſuo ſm̃ ſkrettrundu

mun ein verndar hlÿf vera yfer ollu þui huad a Dyrdarſamligt er/z mun ſo ein Tialldbwd
ba til forſkygnis a deiginũ fyrer Hitanũ/z eitt hæle z ſkiol fyrer Storuidrinu z Dogginñe.

# V.

Pſal. lxxx. Jerem. ij. Matth. xxi.

NV vel/Eg vil mÿnum elſkuliga/kueda þad kuædit mÿns Fødur brodurs/ A
vt af hñs Vÿngarde. Miñ Aſtuinr hefr eirn Vÿngard i frioſomu Tak/
marke/z hefer girt i kringum hñ/og medur griote hladit /og Rootſett þar
jñe koſtuliga Vÿnkuiſtu. Hñ vppbygde eirnen eiñ Stopul/þar jñe/z gr/
of eina Vÿn preſſu þar nidur/og vonade þad hañ munde Vÿnber af ſier
gefa/Eñ hañ gaf fram ſwr Vÿnber. Dæme þier nu Borgar meñ af Je
ruſalem/og þier meñ Juda mille mÿn og mÿns Vÿngardz/Huad var þad eg ætte meir ad
giøra minum Vÿngarde þad eg hafe enn ecke vid hñ giørt? Huar fyrer hefer hann þa ſwr
Vÿnber af ſier giefid þa ed eg vonade hañ munde ſæt Vÿnber af ſier giefa

Ognũar hotan vt af þoreydſlu Holkſins

Nu vel/eg vil kunngiøra ydur huad eg vil giøra minum Vÿngarde. Hñs veggur ſkal i B
burt takaſt ſo þad hñ foreyddr verde/og hñs gardr ſkal nidur brotiñ verda/ ſo þad hñ vnder
fotum trodiſt. Eg vil hañ foreyddan liggia læta/ſo þad hñ verde huerke eriadr nie vppſko/
reñ/helldr ſo ad þar vaxi Jllgreſe og Klungur þyrnar/og vil Skyunum bioda at þau døgg
ue þar ei yfer/Eñ Vÿngardur DROTTENS Zebaoth er Jſraels hws/Og þeir menn
Juda hñs æſtwdlig plantan. Hñ vonade epter Riettindum/Sia þu/þa var þar fiedrættr/
hñ võade epter Rietilætinu/Sia þu/þa var þar Klogumæl.

Hier vtleggur Prophetiñ huad þau ſwru Vÿnberin ſie/ hart nær Capitulañ til enda. Amos 6.

Vei þeim ſem ſaman draga eitt hws til añars/ z eirn Akur til añars/þangat til at þar C
er ecke meira rwm til / ſo at þr einſamler eigniſt Landit/þad ſama er komid til eyrna DR/
OTTENS Zebaoth. Huad gillder þad ef at þau hinu morgu Hwſin ſkulu ecke i eyde
leggiaſt/og þau hinu miklu z fogru ſtanda i eyde? Þuiat tiu Akurlond Vÿngardſins ſkulu
ecke giefa nema eirn kagga Vÿns/og eitt Trog Sædis ſk giefa eirn mæle Aſk.
Vei þeim huerier ed ſnem̃a vpp ſtanda a Morna til at drecka ſig druckna/z ſitia allt til
Nætur/ſo ad þeim hitne af Vÿnenu/og hafa Horpr/Gygiur/Bumbr/Pÿpur z Vÿndryck
iur i ſÿnum Geſta bodum/eñ giæta ecke ad þui verke DROTTENS/z hafa ongua gi/
ætſlu a hñs handa verkum. Þar fyrer hlytur mitt folk oforſyniu herleidt at verda/ og þeſſ
Villdar meñ Hungr at þola/og þeſſ Alþydu mwgur Þorſta lÿda. Þar fyrer hefer Heluÿt D
tid Undiñe vÿdt i ſundur ſleiget/z gineno vpploket æn allz mæta/ſo at nidur fare bæde þra
Villdar meñ og Alþydu mwgureñ/bæde þeirra enu Rÿku z ſo Gladuæru. At huer ſm̃ eirn
hliote ſig nidr at beygia/z þat huer ſem eirn lÿtelættr verde/og þat augũ Dramblætra nidr
lægd verde. Eñ DROTTEN Zebaoth vpphefieſt i Riettindunũ/og GUD ſa hiñ Heil/
age helgadr verde i Rietlætinu. Þa munu Lombin grefia ſier i þeirra ſtad/z hiner Veſolu
munu huÿla ſig i Eydemorkũ Feitingiañ.
Vei þm ſem ſaman reyra ſig mz lauſũ bondũ rangt ad giora/z med bondum Vagnañ
til at ſyndga og ſeigia. Læt ſnart og brádliga koma hñs verk/ſo at vier ſiaum þat/ Lætum E
ſig nalægia z hier koma rædagiørd hins Heilaga Jſrael/ſo ad vier verdum varer vid þ.
Vei þeim/huerier ed kalla hid vonda gott/og þad hid gooda vondt/og þeir ed af Myrk/
runũ giora Lioſet/og vt af Lioſenu Myrkred/og þeir ed giora ſwrt af ſætu/ og vt af Sætu
hid Swra.
Vei þeim/huerier i hia ſialfum ſier þikiaſt vÿſer og hallda ſig ſialfa Forſiala.
Vei þeim/ huerier mættuger eru Vÿnet at drecka / og ſterker af ſier i dryckiuſkapnum.
Þeir ed rietlæta hiñ Omillda fyrer ſie giafa ſaker/z Riettar farinu hinna riettuÿſſo i burt
ſuipta fra þeim.
Þar fyrer/lÿka ſo ſem þat Ellidureñ foreyder ſtrainu/z Logeñ Agnernar i burt tekur/ſo F
mun þeirra Root forrotna/ og þeirra greÿner vppfliuga lÿka ſem añat molldar ryk. Þui/
at þeir forackta Logmæl DROTTENS Zebaoth/og laſta þa rædu hins heilaga i J/
ſrael. Fyrer þad ſama er Reide DROTTENS grim̃ orden yfer hñs folk/og breider ſi/
na hond vt yfer þa/og leggr a þa/ſo þat Fiollen ſkialfa/z þeirra lÿkamer eru eins ſuo ſem
Saureñ a Stræfunum vte. Og i ollu þeſſu þa lætr hñs Reide eñ ecke af/helldr er hñs hond
eñ nu vtbreidd.

G Þuiat hñ mun einu Sigurmerke vt fleyia i fiarlægd medal Heidiña þioda/ ꝫ þær hinu
sømu hingat locka i fra enda Jardarinnar. Og sia þu/ ad skiott og skyndeliga/ þa koma þr Þetta eru þ[...]
hingat/ og þar er eingin þreyttur nie vppgiefeñ medal þeirra/ ønguañ þeirra syfiar nie sæk Chaldei
er Suefn/ og ønguñ þeirra lossnar bellte fra lendum / ꝫ ecke eins þrra sko þueingr slitnar.
Þeirra Skeyte eru huøss/ og aller þeirra Bogar eru vppspañader. Hoofuar þeirra Hesta
eru sem Hellusteinar/ og Hiolen þeirra Vagna so sem Storuidre. Þeir grenia sem Leon/ ꝫ
so sem Leona huolpar þa grenia þeir/ þeir munu fram bruna ꝫ Herfanget grijpa/ og þad a
burt flytia/ so þat eingen fær þui fordat. Og a þeim døgum munu þeir Dynia yfer þa/ lij-
ka sem Siofar nydr. Nær ed Landet verdur þa a lijtid/ sia þu/ ad þa er þat myrkt af Sor-
gũ/ og þat Lioset mun ecke meir skijna vt yfer þa.

## VI.

A A Þui Arinu/ þa ed Vseas Kongr Andadist/ sa eg DROTTEN sitia vpp Vsias
a einum hæfuñ ꝫ hætt vpphøfdum Stole/ og falldr hañs Klæda vppfylldi
Musterit. Sieraphi stodu yfer honũ/ huer þeirra hafde Sex Vænge/ med
tueimur huldu þeir sijn Andlit/ og med tueimr huldu þeir sijna Fætur/ ꝫ med
B tueimr flugu þeir/ og huer kallade til annars/ ꝫ sagde/ Heilagur/ Heilagr/
Heilagr/ er DROTTEN Zabaoth/ øll Lønd eru full hñs Dyrdar/ suo Apoc. iiii
ad þuerbialkarner skulfu af hliodan þeirra kalls/ og hwsed vard fullt af Reyk.
Þa sagda eg/ Vei mier/ eg em fordiarfadur/ þuiat eg hef saurugar varer/ og by a medal
þess folks sem hefur saurugar varer. Þuiat eg hefe þañ Konungen DROTTEN Ze-
baoth sied med minũ Augum/ Þa flaug eirn þrra Seraphim til mijn/ og hafde eitt gloande
Kol i hendiñe/ huert ed hñ med Tønginñe tok af Alltarino/ og a hrærde miñ munn ꝫ sagde/
sia þu/ hier eru þinar varer med ahrærdar/ so ad þijnar misgiørder verde i fra þier teknar/ og
þinar Synder sie fyrergiefnar.
C Og eg heyrda Rødd DROTTENS/ þat hñ sagde/ Huern skal eg vt senda? Huer vill Matth. xiii
vor sendebode vera? Eñ eg sagda/ hier em eg/ send þu mig. Og hñ sagde/ Far þu og seig til Marc. iiii.
folks þessa/ Heyret þat og skiliet þat ecke/ Siaed þat og þecket þat ecke. Og hertu Hiarta Luc. viii.
folks þessa/ læt þeirra Eyru þyckheyrd verda/ ꝫ forblinda þeirra Augu/ so at þeir siae ecke Johañ. xii.
med sijnum Augũ/ nie heyre med sijnum Eyrũ/ nie skilie þat med sijnu hiarta/ ꝫ leidriette sig Act. xx viii.
D og verde heilbrigder. Eñ eg sagde/ DROTTEN/ Huersu leinge? Hñ sagde/ þangat til ad Rom. xi.
Borgeñar verda foreyddar fyrer vtan iñbyggiara/ ꝫ hwsen maña laus / ꝫ þat Landit liggr
med øllu i eyde. Þuiat DROTTEN mun folkit miøg i fiarlægd burt læta/ so þad Lãded
forlætist med øllu. Þo skal eñ nu hin Tiunda deilld en. þar iñe blijfa/ þuiat þ mun i burt
fært og for eydt verda/ Lijka seim øñur Eik ꝫ Lindartrie/ hueriar ed hafa Stofnen epter/ þo
at þeirra laufblød verde af skeken/ Eitt heilagt Sæde mun suoddan Stofn vera.

## VII.

A ÞAd skiede a døgũ Achas/ sonar Jotham / sonar Osia Kongsins i Juda/ Achas
at Rezin Kongureñ i Syria/ ꝫ Pekah Sonur Remalia/ Israels Kongur/ Resin
drogu vpp til Jerusalem/ til ad beriast i mote heñe / ꝫ eige gætu þeir hana Pekah
yfer vñet. Þa vard þui hwse Dauidz kuñgiort/ ad þeir af Syria forliete Reg. xvi.
sig vppa Ephraim/ þa skalf hiartat i honum/ ꝫ hiartat hñs maña/ Lijka sẽ
þa Trien i Skogienum skialfa af Vinde.
Eñ DROTTEN sagde til Esaia/ Gack þu vt i mote Achas/ þu ꝫ þiñ sonr Sear Ja
sub/ til enda Vatzreñuñar/ vid þñ efsta Fiske damẽñ/ vt vid veigen hia Akrenum Litarans/
ꝫ seig so til hñs. Vara þig ꝫ vert stille/ hrædst þu ecke ꝫ þitt hiarta sie ottalaust/ fyre þssũ
tueimur riukande Kolbrøndum. Einkum fyrer reide Resins og þrra af Syria ꝫ sonar Rema
B lia/ þo at þr af Syria/ mz Ephraim/ ꝫ syne Remalia hafue eina võda rædagiord samsett j
mote þier/ so seigiande. Vier viliũ vppfara til Juda/ vekia þa vpp/ ꝫ leggia þa vnder oss/
eg setia son Tabeal til Kongs þar iñe. Þui suo seiger DROTTEN DRottin/ þad sk
ecke so stãda nie so verda/ helldr lijka sem þat Damascus er høfud j Syria/ suo skal Rezin

høfuded vera til Damasco. Og jñan fim̃ z Sextijge Aara þa skal þat mz Ephraim vtgiø-
rt/ so at þeir skulu ecke leingr eitt folk vera/ og lijka s þ Samaria er Høfuded j Ephraim/
so skal sonr Remalia Høfuded va j Samaria. Ef þier trwed ei/ mũu þier ecke vidstãdast.
Og DROTTIN talade enn aptr til Achas og sagde/ Kref þu þier eins Teikns af
GVDE DROTTNI þijnum/ huert þad er nidre i Vnderdiwpunum/ edr a Hædũ vppe
Eñ Achas sagde/ ecke vil eg þess krefia/ vppa þ eg freiste ei DROTTENS. Þa sagde
hñ/ Nu vel/ Þar fyrer heyre þier af hwse Dauidz/ Huort er ydur þat forlijtid ad þier giør-
ed møñønum mangr / at þier hlioted eirnen at mæugra minn GVD? Fyrer þann skulld mun
DROTTIN sialfr gefa ydr eitt Teikn. Sia þu/ Ein Jungfru er oliett/ z mũ eirn Son E
Matth. i. Luc. i.
fæda/ og hñ mun hun kalla Jmmanuel/ Smiørs z Hunangs mun hñ neyta/ suo at hñ kuñe
at forleggia hid vonda/ z vtuelia hid gooda. Þuiat fyrr eñ þat Sueirnen lærer at forlegg
ia hid vonda z vtuelia hid gooda/ þa mun þat landit fyrer hueriu þu hrædist/ yfergefit verda
iiii. Reg. xvi.
af sijnum teimr Kongũ.
Eñ DROTTEN mun yfer þig/ yfer þitt folk/ z yfer þijns fødurs hws þa daga ko-
ma læta/ hucrier þ ecke hafa komet i fra þeim tijma þ Ephraim skilde sig j burt fra Juda/
fyrer þañ Kongen til Assyria.
Þuiat a þeim døgũ mun DROTTIN blystra ad Flugunũ vid endan Vatnaña j E-
gipta lande/ z at Bijflugunum j landinu Assur/ so at þær kome z legge sig allar nidr vid þa
þurru Lækena z j Biargskoruñar/ z jñ j alla Vidar ruña/ z j allar smugr. A þeim sama tij D
ma mun DROTTIN afraka Hærit af Høfdenu z Fotunũ/ z allt Skegged j burt taka
a Leigdũ) Kong urin̄ af Assyri a kallast leigdr Harknijfr þuiat Gud hefr hann vm̃ stũdar saker til þss at strappa sitt folk
mz einũ a leigdum Hærknijfi/ sm̃ er/ fyrer þa s eru hinumeigen Vatzins/ sem er fyrer Kong
iñ af Assyria.
A þm døgũ/ mun eirn mañ vpp ala fiølda Kwa/ z tueñar Sauda hiarder/ z mũ hafa so
margt at miolka / þad hañ mun Smiørs neyta/ þui hũ hañ blijfur epter j landenu/ sa mũ
Smiør z Hunang eta. Þuiat þat mun skie a þeim tijma/ at þar huar ed nu standa Þws-
und Vijntrie/ Þusund Silfurpeniga verd/ þar mun vera Klungr z Jllgrese/ so at meñ me-
ge med Bogum og skeytum þãgat ganga. Þuiat b j øllu Landinu munu Klungr þyrnar z
b þat er/ Landed mũ lagt i eyde
Jllgrese vera/ so þ til allra þeirra fiallaña sem vant var at eria z plægia vmhũsis/ þa ku-
ña meñ eirnen ecke at koma fyrer hrædeligum Klungr þyrnum z Jllgrøsum/ helldr munu
þar Vxar hafder z meñ munu læta Saude þar yfer renna.
Og DROTTIN sagde til mijn/ Tak þier stort Bref/ og skrifa þar vppa mz Mãsins E
stijl/ Ræned fliott Skiptid skiott. Og eg tok til mijn tuo Trulynda votta/ Presteñ Vriam/ z
Sachariam son Jeberekia/ z gieck til eirnrar Spadoms konu/ hũ vard Oliett og fædde son/
Og DROTTIN sagde til min/ Kalla þu hañ /Ræned fliott/ skiptit skiott/ þt ædr eñ þ
Sueirnenn kañ at kalla/ Kiære fader/ Kiære moder/ skal makten Damascus og Herfanget
Samarie j burt teked verda fyrer Kongeñ til Assyria.
Og Drottiñ talade eñ vid mig z sagde/ Af þui at þtta folk fyrerlijtur Vatnet til Si- F
loha/ sm̃ so hogliga reñur/ z treyster meir Rezin/ z syne Remalia/ Sia/ þar fyrer mũ Drott
c Vatzins) þad er Euphrates/ hu-er ed reñur fra hia Assyria lãde
inn yfer þa kõa lata mikel z streng Vøtn c Vatzins/ sm̃ er Kõgen Assyria/ z alla hñs veg
semd/ so þat hun mũ fara yfer alla þrra Læke/ z ganga yfer alla þrra Arbacka/ z þr munu
jñ briotast j Juda/ Sueijma þar z yfer vm fara/ allt þar til at þ tekr þeim vnder Høku/ og
þr munu sijna Vænge vtbreida/ so at þeir fylle þitt Land/ o Jmanuel/ so vijdt s þ er til.

# VIII.

Hñ spottar Assyrios/ þ þr mu nu koma fyrer Jerusalem / og þo draga i burt þadann med Sneypu/ iiij. Regum xix.

HEret jllmañleger þier Lyder/ z reñet þo vndan. Heyre þier þ aller þier sm̃ A
j fiarlægũ Lõdũ erud. Herklædet ydr z flyet þo vndã/ Bued ydr vel vt z þet
þo a flootta rekner/ samsetiet rædagiørder/ eñ þar verde þo ecke af/ hafed
samtøk/ eñ þ hafue þo ønguañ stad/ þt hier er Jmanuel.
Þuiat so seiger DROTTIN til min/ lijka sm̃ at tæke hñ i hønd mier
z segde mier til/ þat ei skyllde eg ganga a vegum folks þssa/ z sagde. Eige
a Sattmala) Gyd inga lydr trudi Gude ecke og bũ
skulu þier seigia/ a Sattmæle/ þtta folk kañ af øngu at seigia nema) Sattmæla/ Veret eñ
so ottaslegner z ecke so kuñdusamer/ sem þr ero/ helldr helget DROTTIN Zebaoth/ læ-
tid hañ vera ydar Hrædslu z Otta/ þa mun hañ ydr til helgunar vera. Eñ eirn a steytingar
Steirn

Steirn ⁊ ein hneixlunar Hella/þm tueim̃ hwsũ Israels/⁊ til eirnrar Snøru ⁊ Hrøpunar du þar þyrer samala og vinattu vid Heidingia sm̃ þo vrou þra þiãdmeñ/
þm Borgar mønnum til Jerusalẽ/so þ marger af þm reke sig þar a/falle/ foreydest/bund
ner og Hertekner verde.

Bitt til samans Vitnis burden/⁊ jñcigla Løgmaled mĳnũ Læresueinũ. Þuiat eg vona
vppa DROTTIN/huer ed sitt Andlit hefur til byrgt fyrer hwse Jacobs/Eñeg bĳd ept᷑
hm̃. Sia þu/hier em eg/⁊ þau børn sem DROTTEN hefer mier giefit/til teikns ⁊ stor-
merkis j Israel/af DROTTNI Zebaoth/ hũ ed bygger vppa fiallenu Zion.
B Eñ nær ed þeir seigia til ydar/ þier verdet at spyria Sañsagnar meñena at/⁊ hina s̃ af
teiknũ ræda/huerier ed þuagla ⁊ [b] þræta(þa seiget)Huort skal folked ei spyria siñ GVD
Ed᷑ er þ rettara at spyria hina Daudu helld᷑ eñ hina Lifãde? Ja epter Løgmalio ⁊ Vitn-
esburdenũ. Eñ ef þr seigia ecke þ sama/þa munu þr ecke Morgunlioset hafa/helld᷑ munu
þr fara vm kring i Lãdeno hart slegner ⁊ Hwngrader. Eñ nær ed þr lĳda nu Hungr/ reid-
ast þeir ⁊ bølua siĳnũ Konge ⁊ siĳnũ GVDE/⁊ munu suo ymest lĳta vpp yfer sig ⁊ nid᷑ a
jørdena/ ⁊ ønguañ hlut fiña vtan Myrk᷑ ⁊ Harmkuæle. Þuiat þr ero mædder j Harmkuæ
lunum/⁊ fara viller j Myrkrenu. Þuiat þar mun ein øñur Mæda vera sem þm giører me-
in/helld᷑ eñ su sem a þm fyrre tĳmonũ var/þa ed þ gieck so hogliga til j Landeno Sabulon
⁊ j Landeno Napthali/⁊ hier seirna meir þa þat vard eñ þyngra/vt vid veigeñ Siafuaren᷑
þessu meigen Jordanar/j þrre Heidnu Galilea.

b þræta) þr sm lata vera rþser/ og vilia Ritningena epter sinne skynseme retta.

Psalm. lix.

# IX.

A HAd folk sem geing᷑ j Myrkrunũ/sier eitt Lios miket/ ⁊ yfer þm sem bygg-
ia j myrkuo Lande er eitt skiært Lios ypp ruñet. Þu fiølgar þa enu Heidnu 1. Cor. xv.
þar med eykur þu ecke Gledena. Eñ fyrer þier munu þr gledia sig/Lĳka Jud. vij.
sem at þr glediast i Haustvinuñe. Og lĳka sem at þr eru glader nær ed þr
skipta mz sier Herfãge. Þuiat þu hefur j sund᷑ broted Oked þrra Þunga/
⁊ Vønden þrra Herda/⁊ Stafiñ þss sem þa fram̃ dreif/lĳka sm̃ a døgum
Madian. Þt allt Strĳd mz styriølld/⁊ blodugũ Ræflum/mũ brendt ⁊ mz Ellde foreydt vda.
B Þt oss er eitt Barn fædt/ eirn Son᷑ er oss gefiñ/huers Høfdingia dom᷑ at er a hñs Herdũ.
Og hñ heiter/Vndarleg᷑/Rad/Krapt᷑/Hetia/Eilĳfur Fader/ Fridarhøfdinge/so at hñs
Høfdingia dom᷑ verde mikell/⁊ a Fridnum eingeñ ende. A þm Stolnum Dauidz ⁊ hanns
Kongs rĳkes/at hñ tilreide þ ⁊ efle/med᷑ Dome ⁊ Riettuĳsse/hiedan j fra ⁊ at eilĳfu. Slĳ-
kt mun giøra Vandlæting DROTTINS Zebaoth.
DROTTEN hefur eitt ord vtsendt j Jacob/⁊ þ er nid᷑ fallit j Israel/so at þat sama
skal formerkia allt þat folk Ephraim/⁊ þeir jñbyggiarar til Samaria/þr ed seigia j Met-
nade ⁊ j Stærilæte þrra siñis. Tigulsteinar eru nidur fallner/ eñ vier vilium mz þm høgg-
num steinum vpp aptur byggia/Morber trie ero af høgguẽ/ þa viliũ vier Cedrus vidu þar
C j staden vppsetia. Þuiat DROTTIN mun Herlid Rezins forhefia j mote þm/⁊ þra o-
uine til samãs draga/þa vt af Syria at framã / ⁊ þa Philistei a bak til/so at þr jete Isra
el mz fullum muñe. J øllu þssu þa læt᷑ hñs Reide ei af/ hñs Hønd vtbreider sig eñ nu/þo
snyst þ folk ecke at helld᷑ til hñs sem a þ legg᷑/⁊ skeyter ecke vm DROTTIN Zebaoth.
Þar fyre mũ DROTTIN burt høggua af Israel bæde Høfudit ⁊ Halañ/bæde Kut
sten ⁊ Tried a einum deige. Hiner gømlu Heidurs meñ eru Høfudet/eñ þr Spameñ s̃ Lyge
keña eru Haliñ. Þuiat Leidtogar[v] folks þssa eru Villumeñ/⁊ þr ed so læta Leidtoga sig e-
D ru glatader. Þar fyrer kañ DROTTEN ecke at glediast yfer þrra Ynges moñum/nie
þra Eckium og Fødurleysingũ Myskunsam᷑ ad vera. Þuiat aller saman eru þr Hræsnar-
ar ⁊ Illmeñe/⁊ allra Muñ᷑ talar Heimsku. J øllu þssu lætur hñs Reide eige af/ hñs hø-
nd vtbreider sig enn nu.
Þuiat þ Ogudliga athæfit er vpptendrad lĳka sm̃ Elld᷑/⁊ foreyder Klungrũ ⁊ Illgresi/
og logar so s̃ j þyckuũ Skogi/og gef᷑ af sier hæfã Reyk. Þuiat i Reide DROTTENS
Zebaoth er Landet formyrkuad/so þ folket er lĳka sem añar Elldz matur/eingen væger ød-
rum. Ef ræna þr til hægre hãdar/þa lĳda þr Hũg᷑/ Matist þr til Vinstre hãdar/þa vda
þr þo ei sadder. Hũ eiñ et᷑ kioted sins Armleggs. Mãasses Ephraim/Ephraĩ Mãassẽ/⁊ þr
bad[v] til samãs j mote Juda/j øllu þssu læt᷑ hñs Reide eñ ei af/hñs hond vtbreider sig eñ nu.


Vei þm

# X.

VEi þeim Løguitringũ/ sem rangsnuen Løg samsetia/ ⁊ þeim ed ranga vrskur- A
de skrifa/ suo at þeir nidurþrycke mæalefnũ Fatæckra/ og yfergang veite j La
ga soknũ/ lijtilmagnãum a medal mijns folks/ so þ Eckiuñar hliota þeirra .
Ræensie/ ⁊ Fodurleysingarner þrra Herfãg at vera. Huad vilie þier til giø
ra a þeim deige Vitiunariñ[ar] ⁊ Oluckuñar sem vr fiarlægd kemr? Til hús
vilie þier flyia hialpar at leita? ⁊ hu[ar] vilie þier ydar veg semd læta/ so at
hun verde ecke nidrbeygd medal hiña Herteknu/ ⁊ falle medal þrra sem ero j Hel slegner? J
øllu þ essu lætr hñs Reide eñ ei af/ hñs hønd vtbreider sig eñ nu.

O Vei Assr/ sem er Vøndr miñar Reide/ ⁊ hñs hønd er Stafr miñ[ar] Bræde. Eg vil vt B
senda hñ j mote eiñe hræsnis þiod/ ⁊ skipa honũ j mote þui folke miñar Reide/ so at hñ ræ-
ne þ/ ⁊ vtskipte þui sem Herfãnge/ ⁊ vnder fotum trode þ/ so sem añan Gatna saur. Þo ad
hñ þeinke þat ecke so/ ⁊ hñs hiarta hugleide þ ecke a þñ veg. Helldr er hñs Hiarta reidubu
et til at afmæ/ ⁊ foreyda eigi allfæu folke. Þuiat hñ seiger/ Huort eru mijner Høfdingiar
ecke aller Kongar? Er ecke Calno so sem Carchemis? Huert er Hamath ecke so sem Arpad?
Er ecke Samaria lijka so sem Damascus. Lijka so sem þat mijn hønd hefr fundet Kõgarij
ken Afgudaña/ huerra Afguder þo øflugre voru eñ þr sem j Jerusalem og Samaria voru/
Huort skyllde eg ecke giøra vid Jerusalem ⁊ heñar Afgude/ lijka s þ eg hefue giørt vid Sa C
maria ⁊ heñ[ar] Afgude.

Eñ nær ed DROTTINN hefer fullgiørt øll sijn verk a fiallenu Zion ⁊ til Jerusalẽ/
þa mun eg vitia Auaxtariñs hins Drambsama Kongsins til Assyria/ ⁊ prydeñar hñs drãb-
læta Augna. Þar fyrer at hñ seiger/ Eg hefe þetta framkuæmt fyrer krapt miña hãda/ ⁊
med mijnum Vijsdome/ þt eg em hyggeñ. Eg hefe Løndunum a añan veg j sundurskipt/ Og
þrra Afstektum rænt/ Og lijka sem eirn Volldugur mañ jñbyggiarana vnder lagt. Og min
hønd hefer fundet folkit lijka sem añat fuglshreidur/ so þ eg hefe øll Lønd til samãs lesit/ lij
ka sem þa Egg vpp ſe[i]ast þau ed glotud ero/ ⁊ þar var eingen sa s hrærde eina Fiødr/ eda
geispade eda andade a mote.

Huort fær Oxin nockut hrosad sier i mote þeim sem mz heñe høggr. Edr Søgeñ forha- D
fit sig j mote þeim sem mz heñe sagar? Lijka sem ed sa ma hrosa/ sem Stafeñ bæde [a] ber ⁊ vpp
hefur/ ⁊ ber hñ so liettliga sem være hñ eckert trie. Þar fyrer mun DROTTEN DRO-
TTEN Zabaoth/ senda Megurdar Sott a medal hñs Feitingia/ ⁊ hñs vegsemd mun hñ
vpp tendra/ so þ hun mun breña lijka sem Elldur. Og [b] Liosit j Jsrael mun vera eirn Elldr
⁊ hñs hiñ Heilage mun eirn Elldz loge vera/ ⁊ mun hñs Klungur þyrnar og Jllgrese vpp
brenna ⁊ foreyda a einum deige/ Og su fegurden hñs Skogar og Vijdlendis skal at øn- E
gu verda/ J fræ Sælũne allt vppa Holldet. Og mun so foreydast og burt huerfa / at þau
Trien hñs Skogar sem epter eru meige talen verda/ ⁊ eitt Barn meige þau vpp skrifa

A þeim døgum munu þr sem ept[er] blijfua j Jsrael/ ⁊ þr sem vndã komast af hwse Jacobs
treysta ecke leingr vppa þañ sem a þa leggr/ helldur munu þr treysta vpp a DROTTEN
þann heilaga j Jsrael/ j sañleika. Hiner sem yfer blijfa munu snuast / Ja/ þeir s yferblijfa F
j Jacob/ til GUDZ hins Øfluga. Þui þo þitt folk/ o Jsrael/ sie lijka sem Siafarsandur/
þa skulu þo þr einer vmuender øda/ sem afgangs eru af þui hino sama. Þuiat þegar For-
dierfunen er stillt/ þa mun yferfliotanligt Riettlæte kõa. Þuiat DROTTINN DRottiñ
Zebaoth skal eina Fordiorfung ganga læta. Eñ hñ stiller hana þo j øllu Lãdeno.

Þar fyrer seiger DROTTINN DRotten Zabaoth/ Ottast þu ecke mitt folk/ þ sem til
Zion bygger/ fyrer Assur. Hñ mun þig med Stafnũ slæ/ ⁊ siñ Staf vpphefia j mote þier/
lijka sem skede a Egipta lãde/ Þuiat þ er nu vm eina miøg stutta stũd ad giøra. Þa mũ min
Þyckia ⁊ mijn Reide yfer þra Misgiørdum eirn enda hafa/ ⁊ DROTTINN Zabaoth mũ
vpp vekia yfer hñ eirn Hrijs vønd/ lijka sem j slaginu Madian/ a Biargenu Oreb/ ⁊ hñ mũ
siñ staf (þañ ed hñ j Hafinu hafde) vpphefia/ lijka sem a Egiptalande / A þeim tijma mũ hñs
byrde af þijnum herdũ j burt teken verda/ ⁊ hñs Anaudar Ok af þinũ Halse/ þt þ sama ok-
it mun af Feite j sundur morkna/ G

Hñ kemr (læt sem þ so sie) til Aioth/ hñ dregr j giegnũ Migron/ hñ vtuelr sitt Herfolk til
Michmas

Forspæ i giegn Assr
iiij. Reg. xix.
Esa. xxxvij.

[a] ber) Þad uelldar a er Gude eirn Tiraña vpp at taka helldr enn off Reyrstaþ edr grasstra/ sem eckj er trie

[b] Liosit) Þat er Gud i Musterino/
Rom. ix.

Assur

Judic. v.

Michmas/þr draga fram̃ hia vorum Nerbwdū j Geba / Rama hun skelfuist vid/Gibeath
Sauls j burt flyr/Þu Dotter Gallim æptu hatt/Nygg at Laisa/ þu hin fatæka Anatoth/
Mademena flyr vndan/þr jñbyggiarar til Gebin efla styrk. Kañ vera at þr blyfe eirñ dag
til Nob/þa mun hñ hræra hond sijna j mote fialleno dætrañа Zion/og j mote Jerusalems
hæd. Eñ sia þu/þ DROTTJN DRotten Zebaoth/mun Greinenar mz vallde af snyda
z þ huad hatt vppstendur stytta so at þ sem hatt er mun nidr lægt verda/ Og sa hiñ þyckui
Skogurē nuñ medr Jarne vm koll hogguē vda/z Libanō nū falla fyrer þañ hiñ mektuga.

hier vppteiknar hñ reisu Kongs sins ap Assyria til Jerusalem/ og þ hañ mune þssar borger rue tla og ræna/en hñ munr so vpp hogguen verda sem Skogr. et Esaie. xxxvij.

# XI.

A OG þar mun eirn Vondr vpprenña af kyne Jesse/og eirn Kuistr af hñs Root
mun Auext færa. Yfer hueriū þ huijla mun Ande DROTTJNS/Ande
Vitskuñar z Skilningsens/Ande Radsins z Styrkleiksins/Ande Vidurken
ingarinñar z Otta DROTtins/ z hñs Reykelsis offr mun vda i Otta DR-
OTTJNS/hñ mun ecke dæma epter alite Augnañа/ z ecke straffa epter
þui sem hñs Eyru heyra til /helldr mū hñ medr Rettuijse dæma hia Fatæku/
og medr Dōe hirta þa Aumu j Lādeno. Og hñ mū sla Jordena medr Vende sijns Muns/
og medr Anda siña Vara j Hel sla hina Omilldu. Rettlæted mun uera Bellte hñs Lenda/
B og Truan Linden hñs Nyrna.

Spadomr vm Christo og hñs Konungs Rijke.

Vlfuarner munu byggia hia Lombunū/og Vlfballdarner mūu liggia hia Hofrunum/
Eitt smaa barn mun Kalfua/z Leona Huelpa/og añat Alifie til samās reka. Kyr z Birn
ner munu j einum Grashaga gāga/so þ þrra Vngar huijlest huorer hia odrum/z Leoned
mun Hey eta sem Naut. Og eitt Briostbarn mū leika sier yfer smugu Nodruñar/z þ Barn
af Brioste er vanet mū stinga siñe hende j bæled Flugormsins. Og eingen mun skada nie
Fordiorfun giora a mijnu Heilogu fialle. Þuiat Lāded er fullt af vidurkeñing DROTT-
JNS/lijka s̄ at være þ hulet mz votnū Siofuarens.

Esa. lx vi.

C Og þ mun ske a þm dogū/þ Rooten Jesse/sem stendr folkenu til Sigurmerkes/ at epter
hñ spyria Heidnar þioder/z hans huild mun vera Dyrdlig. Og a þm dogū mun DRO-
TTJN j añat siñ sijna hond vtbreida/so at hñ fae þ sem afgāgs er sijns folks/og þ epter
er vordit fra þm j Assyria/Egiptskum/Patros/Blalāde/Elamiten/Sineas/Hamat/z fra
Eyunū Siofuarins. Og hñ mun eitt Sigurmerke vpp setia medal Heideña þioda/z samā
safna þm vtreknū af Jsrael/z hina j sūdr dreyfdu af Juda til samās leida/vr þm fiorū att
um Jardariñar. Og sa Ouinskapurenn vid Ephraim mun enda taka/og þr Ouiner Juda
D munu afmaader verda/so þ Ephraim hate ecke Juda/og þ Juda sie ecke i mote Ephraim.
Eñ þm Philisteis vid vestreno mūu þr a hals leggiast/z ræna þa alla s̄ j mote Austrenu
bwa. Edom z Moab munu vtbreida sijnar hendr a mote þm/Syner Am̃on munu hlydug
vera/z DROTTJN mū fyremæla Stromū Siafarins j Egipta lāde/Og hñ mun sijna
hend lata yfer ganga Vatnid med sijnum sterkū Vinde/z sla þa sio Vatzstromana so ad
meñ meige þar þurrū fotum j giegnū gāga/og hñ mun veguriñ vera þm sem epter ero af
hñs folke/þ epter er ordit af þm Assyrios/lijka s̄ þ skiede Jsrael a þm tijma ed þr vtgeingu
af Egiptalande.

Spadomr vm kallan heidiña þioda til Euangelium/ Rom. xv.

Exodi. xiiij.

# XII.

A A Þeim sama tijma mūtu so seigia.
Eg þacka þier DROTTJN/at þu vart reidr vppa mig/og þad þijn
Reide hefer vmuendt sier/og Hugsualat mier.
Sia þu/ GVD er minn hialpare/eg em oruggr z ottast ecke. Þuiat
GVD DROTTEN er miñ styrkr/z miñ Lofpsalmr z mitt Hialpræde.
B Þier munut mz fagnade Vatnit vppausa vr Hialpprædesins bruñum.
Og munut seigia a þm sama tijma/Þacke þier DROTTNE/Prediket hñs nafn/gio
ret kuña medal folksins hñs giorninga/kuñgioret huersu vegsāligt at er hñs Nafn.
Lof syngit DROTTNJ/þuiat hñ hefer audsyndt sig dyrdligañ/þ sie heyrum kuñigt j
ollum Londum.
Syng lof/z vt glod þu s̄ jñe bygger j Zion/þt Jsraels hiñ Heilage er mikell hia þier.

Þesse er

Babilon
Jerem. l. li.
Spadomr vt af hefndar straffe þui sem koma skylldi yfer heidnar þioder

## XIII

HEsse er byrdar þungen yfer Babilon/huern Esaias son̄ Amos hefer sied/ A
Setiet Merkit vppa hæfiøllunū/Kallet fast j mote hen̄e/Slæet vpp hen
den̄e/Latet jn̄draga vm Hliden Hofdingiana. Eg hefe mijn̄ū Heiløgum
bodit/& mijna Afluga kallat til min̄ar Reide/þr ed gladuærer eru j minnē
Vegsemd. Þar er eitt kall mikels fiølda a fiøllunū/lijka s̄ være þar grwā
folk. Eitt kall lijka sem mikillar styriølldar / þar ed saman søfnud eru
Kōga rijken þiodan̄a. DROTTIN Zebaoth byr ein̄ Her vt til Bardaga/huer ed vt af
fiarlægum løndū mun koma j fra ydsta enda Heimsens. Ja DROTTIN sialfr / medur
†Kierū † ~~herlide~~ sin̄ar Reide/til ad fordiarfa allt landet.

Kueinet/þuiat Dagr DROTTINS er nalægr/hn̄ kiemr lijka sem øn̄ur Foreydslā
af hinum Almættuga. Þar fyrer tregast vpp allra hendur/& allra man̄a hiortu munu hug B
laus vera. Skelfuing/Angist & Harmkuæle mū/yfer þa kōa/þr munu hugsiuker vera lijka
Job. ix.
Amos v.
sem hun ed fæda skal/huer þra mun hrædast an̄an/þrra Andlit mun suo raud verda sem Ell
dur. Þuiat sia þu/Dagr DROTTINS kiemr ogurligr/Reiduglegr/& Grimlegr til ad
a Orion) er Sydius/þ er eitt stiornumerke/af þui eru þær Stiornr er men̄ kalla þiskall/
forenda Lādet/& at afmā hina Syndugu vt þadan. Þt Stiørnr Himens & sa Orion/skijn ei
skiært/Solen geingr myrk vpp/& Tūglit hefr ecke sitt Lios/Eg vil þrrar Jardarkringlun̄ar
vitia vegna sin̄ar illgirne/og þrra Ogudligu fyrer sin̄ar man̄ illsku saker. Og eg vil eirn en
da giøra metnadarens hin̄a Rijkelætra/& Dramblætid hin̄a Vollldugra nidr lægia/so þ eirn
Karlmadr skal dyrkeyptare vera helldr en̄ kostulegt Gull/& ein̄ Madur meira a verdr en̄ eitt
b verdr) Þat er so mikel þæda mū vera a mōn̄um i landinu so sem a Gulle
stycke Gullz vt af Ophir. C

Þar fyrer vil eg Himenen skelfua/so þ Jørden skal vr sijnū stad hræarast/af þrre Grim
dar Bræde DROTTINS Zebaoth/& fyrer þm deigenum hn̄s Reide. Og hun skal va
sem ein jøgud skogar Geit/& sem þr Sauder ed ønguan hafa Hirder/so þ huer ein̄ snue ap
tur til sijns folks / & þ huer eirn flye aptur j sitt Land. Af þui at huer sem þar finst/mun j
c hun) Babilon/ Medi.
Hel slegin verda/ & hū hn̄ er þar i hia/sa mun fyrer Suerde falla. Þeirra Børn skulu eir-
nen þm asiaāde sundurmaren vda / þra Heimele rænt/& þra Kuin̄ur skam̄adar. Þuiat sia
þu/ Eg vil þa vr Medi vppuekia yfer þeim/huerier at engu Silfre leita/ nie epter neinu
Gulle spyria/helldr þra Ynges men̄ mz skeytū j Hel at skiota / og vidur þeirra lijfs Auexte
Myskunarlauser at vera/og þeirra Vngbørnum øngum at vægia. D

Þan̄en skal Babilon/hin fegursta medal Kongarijkian̄a/ hin dyrdliga Velldestignen j
Chaldea vm turnud verda af GVDE/lijka so s̄ Sodoma & Gomorra/so at þar sk ei lein-
gur buet j vera/nie nockr þar blijfa at eilijfu/so þ eirnen þeir vr Arabia giore þar eingen
d Zihim) allra handa Villuþuglar
hws/& ønguer Hiardar geymslu m̄ hafe þar nein hreyse/helldr mūu d Zihim hreidra sig þar
og þra hws af e Ohim full vera/& Strwssfuglar munu þar byggia/& Draugar munu þar
e Ohim) eru allzhattud Dyr og Kuikindi þau sem eru þerþæt.
danza/& Nætturglur munu syngia j þra Herbergium/& Eitur drekar j þeira lystilegū Lopt-
støfum. Þra tijme mun ad mestu komen̄/& þra dagar skulu ecke vndandraga. E

Þuiat DROTTIN mun Jacob Myskunsamr vera/& Jsrael en̄ nu framueiges vtuel
ia/& þa jn̄setia j þra land/ & hiner framande munu nalægia sig til þeirra/& samteingia sig
þui hwse Jacobs. & folket mun hallda med þeim & færa þa til sin̄a stada / so þ hws Jsrael
mun eignast þa j lande DROTTINS/sier til Þræla & Ambætta. Og munu þa Her-
tekna hallda af huerium ed þr Hertekner voru/& Drottna yfer þeim sem þa þiadu.

## XIIII.

Babilon
ein huggun i giegn þrre Babilonesku herleidingu

OG a þm tijma/nær ed DROTTIN mun giefa þier huijld af þin̄e Ey- A
md og Armædu/& af þrre hardre þionustu sem þu vart jn̄e/Sie/þa muntu
soddan Ordzkuid hafa j mote Konginū til Babilon/og seigia. Huernen er
þ nu mz øllu vtgiort vm þn̄ Fordrijfaran̄/ & þ Skattgiallldet er nu aftekit
DROTTIN hefer Vønden þrra Omilldra j sundur brotet þan̄ Vøn-
den Yferdrottnarans/sem vaflætaliga a folket lagde mz æde/ & mz Grimd
Drottnade yfer Heidnū þiodū/& ofsokte þær Myskun̄ar laust.

Nu huijlest þo øll Verollden & er vm kyrt/fagnar & gledz/ Grene trien gledia sig eirnen
yfer þier/

eirnen yfer þier/⁊ þr Cedrus viderner j Libanon(⁊ seigia)a medan þu liggr/þa kemr eing=
en vpp hingat sa ed oss høggue nidr. Þat Heluijted þar nidre skelfuist fyrer þier/þa þu ke=
mur þui j mote / þad vppvekr þier þa hinu Daudu/⁊ alla ᵃ Kiarnhafra Veralldarinnar/⁊
B skipar øllum Kongū Heidiña Þioda at standa vpp af sijnum Tignarstolū/so ꝥ huer s̄ eirn
giefe ꝥ suar ⁊ seige til þijn. Þu ert ⁊ eirnen nidrsteigen lijka sm̄ vær/⁊ ꝥ geingr þier lijka s̄
oss. Þijn Drambsemis pryde er nidr komen til Helvijtis / og Sønghliodet þiñar ᵇ Hørpu/
Mølureñ mun vera þin vnderdyna ⁊ Madkarner þijn Abreida.
Huernen ertu af Himne ofan dotten þu hin fagra Morgunstiarna? Huernen ertu til
Jardar fallen þu sem veykter þiodernar? Þeinkter þu þo so j þijnu hiarta. Eg vil vppstij=
ga j Himenen/⁊ forhefia mitt Tignarsæte yfer Stiørnur GUDZ/Eg vil setia mig vppa
fiallet Satmœlas/ vidr þa hlidena mote Nordrenu/eg vil fara yfer hæd Skyaña/⁊ samlij=
kur vera þm hinū Hædsta. Ja/til Heluijtis fer þu afuega j þañ diupa Pytt/huer þar þig
C sier sa mun skoda þig ⁊ lijta til þijn ⁊ seigia/Huert er ꝥ sa madurinn sm̄ skook Jørdena/ og
skielfde Kogarijken/huer ed Verølldena foreydde ⁊ Borgeñar þar jñe nidurbraut/⁊ gaf ec=
ke sijna Bandingia lausa.
Ad søñu aller Kōgar Heideña þioda til samās liggia/þo mz Heidr/huer j sijnu heimky=
ñe/eñ þu ert rekeñ af þiñe Grøf/so sm̄ fwen Kuistr/lijka s̄ eiñ Ræfell þra sm̄ drepner ⁊ mz
Suerde j Hel slegner eru / þeir ed ofan fara j þær ᶜ griotkaser Heluijtis /so s̄ annad
D Footum trodet Hræ. Eige muntu lijka sm̄ þr grafin verda/þt þu hefr þitt Land fordiar=
fat/⁊ þitt folk nidurdrepet. Þuiat alldreige mun þss Sædesins hiña jllskufullra minst vda.
Buet til/ꝥ heñar børn verde drepen/fyrer misgiørda saker Fedra þrra/so at þau komest
ecke a legg/nie eignist Landit ⁊ vppfylle Verølldena mz Borger/Og eg Vil koma yfer þa
seiger DROTTIN Zebaoth/⁊ afma þra miñing/af Babilon/þra yferblifit Slekte og
epterkomendr/seiger DRottin/⁊ eg vil giefa hana til eignar Þindsuijnū/⁊ giøra at Stødu
E votnum/⁊ eg vil vtsoopa heñe medr Sopliima Foreydsluñar seiger DROTten Zebaoth.
Eñ DROTTIN Zebaoth hefer Suaret ⁊ sagt. Huad gillder ꝥ at ꝥ skal so skie sem
eg þeinke/⁊ skal so blijfa sm̄ eg hefe asett/Þad Assur verde nidr sleigeñ j mijnu lande/⁊ þat
eg sundur trode hñ vppa minum fiøllū/so ꝥ hñs Ok verde af þm tekit/⁊ ꝥ hñs Byrde kom=
est af þra halse. Þetta hid sama er aformid ꝥ hñ hefer yfer øllum Løndū/⁊ ꝥ er su hin vt
breidda hønden yfer allar þioder. Þuiat DROTTIN Zebaoth hefr ꝥ so vrskurdat/Hu
fær þui hamlat? Og hañs Hønd er vtbreidd/Huer vill henne j burtu snua?

ᵃ Kiarnhafra) ꝥ er/þa Mektuge storherrana/
ᵇ Hørpu) þat er/ bæde hefr enda Maktin og gledinn/
Foreydsla Babilonar/
Psal. xxxiij.
ᶜ Griot) þad er/ i grytta Jørd/ grytta legstadi/
Assur
Foreydsla Assyria ladz

# XV.

A Þui Aare þa Kong Achas andadest/var þsse Byrdarþūge. Gled þig ecke
þu gioruallt Philistei land/ꝥ sa Vøndureñ sm̄ þig slo sie j sundr broteñ/
Þuiat vt af Root Høggormsins mū kōa eiñ Basiliscus/⁊ hñs Sæde mū
eirn gloāde Flugdreke vera. Þuiat hiner Frumgetnu þra Voladra mūu
fæda sig/⁊ hiner Fatæku ottalauser huijlast. Eñ þijna Root vil eg mz hūg
re deyda/⁊ þijna epterlætnu skal hñ j Hel sla. Ylfbra þu Stadarens port
Kucina þu Borgen sialf/Allt Philisteis Land er huglaust. Þuiat vr Nordreno kemr Rey=
kur ᵃ Og þar er eingen eiñsaman j hñs flocke. Og huad mūu Sendebodar Heideña þioda
hier ⁊ þar seigia? Þetta/Þat Zion hafe DROTTIN grunduallat/⁊ hiner fatæku hñs
folks munu þāgat sier skiols leita.

Achas
Foreydsla Philistei ladz
Jer. xlviij.
Ezech. xxv.
Zeph. ij.
ᵃ Reykr) þad er/ Foreykur eins mikils Herskara

# XVI.

A ÞEtta er byrdarþingen yfer Moab. A Nættarþele kemr Foreydsla yfer
Ar j Moab / hun er j burtu. A Nættartijma kemur foreyding yfer Kir i
Moab/hun er j burtu. Þeir ganga vpp til Baith ⁊ Dibon til þra Allta=
raña/so at þr Græte ⁊ Yle yfer Nebo ⁊ Medba j Moab. Allra Høfud
er hærlaust/allra Skegg er j burt rakat. A sijnū gatna motum gāga þeir
medr Hærusecktū vafder/vppa sijnum Ræfrū ⁊ Strætū Yla þr aller/⁊ gā=
ga grætande þar ofan af. Hesbon ⁊ Eleale æpa so hatt at ꝥ heyrest til Jahza; Þar fyrer
kucina

Moab
Jerem. xlviij.
Ezech. xlviij.
Zeph. ij.

a Kyrenn) Moab kallar hn̄ þreuetra Ku/ þui ꝥ land var gott/ og folkrijkt lād so sem ein vng Kyr er Auextarsöm/og miolkar miked/

Kucina hiner Nerklæddu j Moab/ ꝥt þra Sælum geingr jlla.
Mitt hiarta kallar a Moab / Þeirra flootta Menn fluudu fra þeirre þreuetre a Kyr-
inne allt til Zoar þui þeir ganga ofan til Luith og græta / og a Veigenum
til Noronaim / þar vpphefst ein aumleg Kucinan / Þuiat þau Vøtnen til Nim-
rim þuerra/suo þad Neyet visnar / ⁊ Grasit vppþornar/⁊ ønguar grænar Jurter vaxa B
þar. Þuiat þau Audæfen sm̄ þr hafa til samans dreiger/ ⁊ ꝥ folk sm̄ þr hafa vtbwit/flyst
j burt yfer vm þañ Vijde runna Læken. Eitt hrygdar kall geingr vm kring j Landzælfum
Moab/Kucinan þra tekr allt til Egglaim/ ⁊ þr græta j hia Bruñenum Elim/ꝥt Vøtnen
til Dimon eru full af Blode. þar ad auk vil eg eñ meira koma læta yfer Dimon/bæde yf-
er þa sm̄ vndan hafa komist fra Moabs Leonum/ ⁊ yfer þa sem epter blijfa j Landeno.

b Sela) þ er/Sen det Offr til Jerusalem/ef þad villde nockud stoda/

Þetta eru kalls yrde/þui hn̄ meinar hier þuert a mot

Kiære/vt sende þier Landsins Nerrar Lømben af Sela/vr Eydemørkenne/ til Fiallsins C
Dotturenar Zion. Eñ lijka sm̄ eirn Fugl flygr j burt sa ed af sijnu Nreidre verdr j burt drif-
en/lijka so munu verda þær dæturnar Moab nær ed þær ganga fram hia Arnon. Safned
rædum/hafit Þingstefnu/Giør þier skugga vm Middeige lijka sm̄ Nott. Fel þu þa flotta
meñena ⁊ legg ei til þra sm̄ fluet hafa. Leyf þu minū flootta møñum j hia þier ad Nerber-
gia/Kiære Moab/vert þra Verndarskiol fyrer Foreydaranum/ þa mun sa Kualarenn eirn
enda hafa/⁊ sa Fordiarfuariñ liña/ Og sa Nidurþryckiareñ aflæta j Landeno.
Og þar mun eiñ Stoll til reiddr verda fyrer Myskunsemena/⁊ þar mun eirn vppa sitia D
j Sañleikanū/vt i Tialldbwd Dauidz/⁊ Dæma ⁊ Tractera epter Rettenum/⁊ framfylgia
Riettlætenu.
Eñ vier høfū heyrt vt af Drābsemeñe Moab ꝥ hun sie mikel/so ꝥ heñar Drambsemi
Stærelæte Reide er meire eñ heñar Makt. Þar fyrer mun huer Moabite æpa yfer ødrum

Jerem. xl viij

allet saman munu þr æpa/ Yfer Grunduellenū borgariñar/Kirhareseth munu hiner Lemst-
rudu syta. Þuiat Nesebon er ein eyde Jørd orden/Vijngardureñ til Sibma er fordiarfadr/
Nerrarner medal Neideña Þioda hafa hn̄s edla Vijnuidar kuistui sundr sleiget/⁊ eru kom-
ner allt til Jaeser/⁊ draga vm kring i Eydemørkeñe/heñar edla Vijnuider eru j sundur dre-
yfder/⁊ yfer vm Nafit j burt flutter.

c Söng) Quinna heróp i stadenn gledeligs söngs

Þar fyrer græt eg fyrer Jaeser/⁊ vegna þess Vijnuidarens til Sibma/⁊ vthelle mørgū E
Tárum vegna Nesibon ⁊ Eleale. Þuiat þar er eitt c Sønghliod j þijna Sumar viñu og
Naustyrkiu jnfallet/so ꝥ Gleden ⁊ Fognudureñ er af Akurløndunū j burt horfuen/⁊ j þm
Vijngørdunū kueda þr ei nie gledia sig. Þar mū eckert Vijn vtþryckiast af Vijnþrugunū/
a Søngnum hefe eg eirn enda giørt/þar fyrer hliodar mitt Niarta yfer Moab lijka sem
ein Narpa/ ⁊ min Jdur yfer Kirhares. Þa mun ꝥ openskært verda/hūnen ꝥ Moab mūe
erfuidt veita/j hia þm Olltørenum/og huernen ꝥ hn̄ sie geingen til siñar Kirkiu ad bidiast
fyrer/⁊ hafe þo øngu til stadar komet. Þetta er þat huad er DROTTEN hefur talad j
giegn Moab j ꝥ sama siñ/eñ nu mæler DROTTJN ⁊ seiger. A þrimr Aarū/lijka s̄ ꝥ

Daglaunarens

eins Verkmans Aar eru/ þa mun Vegsemden j Moab lijtel verda j þm mikla mañfiølda
so ꝥ miøg fæer epter blijfe ⁊ eige marger.

## XVII.

Forcyding Damascus

Þesse er sa þungen yfer Damascum. Sia þu / ad Damascus mun eingen
Stadur leingr vera/helldr ein nidurhrunen Griothrwga. Þeir Staderner
Aroer munu forlæatner vera/so ad þar munu Niardernar ganga Omaks-
lausar. Og ꝥ mun vtgiørt vera vm Kastala Ephraims/⁊ Rijkisstiornan
til Damascū/⁊ ꝥ sm̄ epter er blifued til Syria mun vera lijka s̄ Vegsem-
den Jsrael sona/seiger DROTTJN Zebaoth.

Damascus kallast Ephraim folks Kastale/ at þeir treystu vpp a Damascū Esaie xx iiij.

A þm tijma mun Vegsemden Jacobs þuñ vera/⁊ hn̄s vel feitur Lijkame mun Magur
vera. Þuiat þr munu vera lijka sm̄ þa nær ed nockur jnsafnar Korne j Naustuiñunne/⁊ so
sm̄ þa nær ed eiñhuer jnndregr Oxen mz sijnum Armleggium/⁊ lijka sm̄ þa ed nockurer sam
ann lesa Oxin j Dalnum Rephaim/⁊ at blijfe þar jñe so sem ein epter viña. Lijka sem ꝥ
nær ed einhuer skekur eitt Vidsmiørs trie/so ꝥ vppi Toppenū epterblijfe tuo edr þriu korn/
edr so sm̄ þa nær ed fiøgr eda fim̄ Alldene heingia a Kuistenū/seiger DROTTen Zebaoth.
A þm tijma mun Madureñ hneigiast at honum sem hn̄ hefr skapat/og hn̄s Augu munu

lijta vppa þann hinn Heilaga Jsrael. ⁊ ei mun hann hneigia sig til þra Alltarañа s hans sialfs hē
dr hafa smijdat/ ⁊ ecke lijta vppa þ huad hans Fingr hafa giørt/ huerke vppa þau Blothofen
C nie Lkneskiurnar.

A þm tijma munu Staderner þra styrkleiks/ vera lijka sem epterlætnar Greiner ⁊ Kuist-
er/ Hueriar ed epterlætnar voru af sonum Jsraels/ ⁊ munu j eyde vera. Þuiat þu hefur for
gleymt Gude þijns Hialprædis/ ⁊ þu hefr ecke minst a þ Hellubiarget þins styrkleika. Þar
fyrer muntu lysteliga plantan nidur setia. Enn þar mz muntu annarligñ þa Vijnkuistu nidr
setia. A þm tijma ed þu nidur sæer muntu þess velgiæta/ so at þitt Sæde Blomgest tijman
lega. Enn j Haustuinnunne/ nær ed þu skallt Kiarnann jnn yrkia/ muntu Sorg eins Harmþrú-
gens þar fyrer hafa.
D O Vei þm fiølda so mikels folks/ lijka sem Siæfarhafet mun þ vppþiota/ ⁊ Bulldran
Lydsins mun so dynia/ lijka s Nydr mikilla Vatnzfalla. Ja/ lijka sem dyniande Vøtn þau
falla/ so mun þ folket framþeysa. Enn hann mun straffa þa/ þr munu þa ⁊ langt j burt flyia/
⁊ mun j burt suipta þm lijka sem þ Vindr feyker Molldar dupte a Fiøllum vppe/ ⁊ lijka sem
Huirfelvindr kemur af Stormuidre. Ad Kuelldtijma/ Sia þu/ þa er þar skelfing/ og ædur
enn Morgun kemur eru þr þar ei leingur. Þetta er Verdkaupet vorra Ræansmanna/ ⁊ hlut-
skipte þra sem vort hafa j burt tekit.

a Styrkleiks) það eru þr staderner i huerium þra Skurgod og emþættis giørdist var/ huar vppa þr treystu. Enn sem sem Jsraels synir lietu þetta folk/ lijka so sem greiner edr kuistu epter blijþa/ þa þr vnnu Canaans land/ so sk þ og eirnenn ganga þeim sialfum/

Þetta er sagt vm þa Assyrios/ huerium hann seiger þyrer stinna/ þordiorþen un Jsraels lyd til huggunar Esa. xxx vij.

## XVIII.

A VEJ þui Landenu/ sem at fer vnder Seglanna skugga þessumeigē Vatnanna
j Blalande/ Huert ed Bodskapen vtsender a Hafenu/ ⁊ j Reyrskipunum a
Vøtnunum fer. Faret hiedan þier skioter Sendebodar/ til þeirrar Þiodar s
Ræand ⁊ rutlud er/ til þss Folksins sem ogurligra er enn nockurt annat/ til þss
Folksins sem vt af er mællt og nidur trodet/ huers Land Vatnzfloden vnder
leggia. Aller þier sem a Jardrijke bygget/ ⁊ þr sem j Landenu bwa munu
sia huernnen þad Merken a Fiøllunum munu vt fliuga/ og heyra þad huernen Lwdrarner
munu Blæsast.

Þuiat so seiger DROTTJN til mijn. Eg vil kyrru fyrer hallda/ ⁊ vmskygnast j minni
Stad/ lijka sem eitt Hitavedr þ sem vppþurkar Regnet/ ⁊ so sem Næatt døgg vti Hita Haust
vinnunnar. Þuiat fyrer Haustyrkiutijman mun Auøxturenn vppvisna/ og sa Alldinis Vijser-
enn j Blomsturtijdenne vppþorna/ so þ Steingurnar hliote menn medr Kornsigdum j burtu ad
snijda ⁊ Vijnkuistuna af at høggua ⁊ j burt kasta. So þ menn hliota til samans ad liggia
læata Fuglana a Fiøllunum ⁊ Dyren i Landenu/ so þ a Sumaret Hreidre Fuglarner þar
jnne/ ⁊ a Veturenn ligge þar jnne allz kyns Dyr j Landenu.

A þm tijma mun þ hid sundurdreifda ⁊ hid ræanta folket/ þ sem ogurligra er enn nockurt an-
nat þ vt af er mællt ⁊ nidrtrodet/ hus Land Vatzflodē vnderleggia/ Forner færa DROTT-
NE Zebaoth/ j þm stad þar ed Nafnet DROTTENS Zebaoth er/ til Fiallsins Zion.

## XIX.

A ÞEsse er Þungen yfer Egiptalande/ Sia þu at DROTTJN mun fara
a einu skiotu Skye/ ⁊ koma j Egipta land. Þa munu Skurgoden j Egip-
talandi skialfa fyrer honum ⁊ Hiartat Egiptskra manna mun sliofgast i þra
Briostum/ ⁊ eg mun egna huern Egiptskan mote ødrum/ so þad eirn Broderen
mote ødrum/ Eirn Vinuren mote ødrum / Eirn Stadurenn mote ødrum/ Eitt
Rijke skal mote ødru beriast. og Hugar hreysten þra Egiptskra skal ad
engu verda/ ⁊ eg mun þra Ræad ad onytu giøra. Þa munu þeir ad spyria sijna Afgude og
Presta ⁊ Sannsagnarmenn/ ⁊ teikna vt þydara. Enn eg mun ofurgefa hina Egiptsku j Valld
grimmra Høfdingia/ og a Hardrædur Kongur skal yfer þm Drottna/ seiger sa Stiornaren
B Drotten Zebaoth.
Og þ Vatnet j Hafeno mun vpp þorna/ Þar ad auk Vatzfallet mun j burt soast ⁊ vpp
þurckast/ ⁊ þau Vøtnen munu framhlaupa/ so at þau Vatzfloden ⁊ Dyken munu minkast
og vpp þurkast/ lijka bæde Reyren og Marhælmurin/ mun vppvisna/ og þ Grasit fram vid

Egiptaland Jerem. xl vi. Ezech. xx ix. xxx.

a Hardrædur Kongurinn af Assyria



Vøtnen

Vøtnen mun lijka vpp þorna/& allt þ Sæde sem vid Vøtnen er mū vppuisna og ad øngu
verda/og þr Fiske menn munu syrgia /og aller þeir hiner sømu sem Fiskeønglana j Vat-
net lata munu Harm bera & þr hiner sømu s Fiskeneten vtleggia j Vøtnen munu hrygg-
uer vera. Þeir ed gott Netgarn verka & Neten til samans rijda nunu skamast sijn/og þeir
ed Fiskeharfana hafa/asamt med øllum þm sem Veideuøtnen giøra fyrer verdlauna saker
þa munu Sorgbitn' vera. E
Þeir Høfdingiarner til Zoan eru fauijser / Hiner Hyggnu Raadgiafarner Pharaonis
gefa vt heimsk raad. Huad seige þier þo vt af Pharao? Eg em sonur Spekingaña/og vt
komen af þm gømlu Kongunum. Huar eru nu þiner Spekingar? latu þa kūngiøra þier
& vijsa þ/huad ed DROTTIN Zebaoth hefr alyckt at yfer Egiptalande. Eñ þr Høfd-
ingiarner til Zoan eru Skiptingar vordner/Þeir Høfdingiarner til Noph eru suikner/þeir
suijkia og med Egiptalānde þañ b Hyrnigar steinen Kynkuijslaña. Þuiat DROTTIN
b Hyrningarsteirn þ er Kongin
hefr vthellt medal þrra einum Suñlunar Anda/so at þr ville Egiptaland j øllum þra giør
ningum/lijka sem þ eirn Ofdruckenn madr hñ kolluelltur nær ed hñ selur vpp. Og Egipta
land mun eckert hafa huerke Høfudet nie halañ/Eikena nie Greinernar. D
A þm tijma mun Egiptaland vera lijka sm̄ Konur/Ottast og Skelfast/þa ed DROT-
TIN Zebaoth mun hendenne veifa yfer þad. Og Egiptaland mun hrædast fyrer Land-
eno Juda/so þ/huer hñ miñest a þ sama mū hrædast fyrer þui /Yfer raadinu DROTT-
ENS Zebaoth sm̄ hñ hefr alyktat yfer þm
A þm tijma munu fim̄ Staderner j Egipta lande tala epter maltæke Canaās/og sueria
vidr DROTTEN Zebaoth /Eiñ mun heita Irheres. A þeim sama tijma mun Alltare
DROTTINS Zebaoth va midt j Egiptalāde/& eirn Merkesteirn DROTTINS
vidr Landamerkē/huer ed vera mun eitt Teikn og Vitnisburdr þm DROTTNE Ze-
Fyrerheit þat þeir Egiptsku
baoth i Egiptalande. Þuiat þr munu kalla til DROTTENS yfer þm sm̄ þa þuinga.
Hñ mun þa & senda þm eirn Hialpar mann & Meistara huer ed þa frelsar. Þuiat DRO-
TTIN mun þm Egiptskum kūngr verda/& þr hinu Egiptsku munu medkeña DROT-
ten a þm tijma/& munu hm̄ medr Fornū & Mataroffre þioā/& þr mūu heitū lofa DROT
tne & hallda þ/Og DROTTIN mun plaaga hina Egiptsku & græda þa/þt þr mūu snu
ast til DROTTINS/& hñ mun lata þa bidia sig/& lækna þa.
A þm tijmū mun vegr vera/af Egiptalande j Assyriam/so þ þr vr Assyria j Egiptalād
og hiner Egiptsku j Assyriam kome/& þr huorutueggiu hiner Egiptsku & vr Assyria munu
Gude þiona. A þm tijmum mun Israel med þm Egiptskum & Assyrijs sialfur þridie vera/
vm þa Blezan sem a Jørduñe mun verda. Þuiat DROTTIN Zebaoth mun bleza þa
& seigia/Blezadr siertu mitt folk j Egiptalande/& þu Assur verkit miña handa og þu Isra-
el mijn Arfleifd.

## XX.

Tharkan Sargon
A Þui Aareno þa ed Tharkan kom til Asdod/ so sem þ Sargon Kongureñ A
Assyria hafde hñ vt sendt/& hñ bardest j mote Asdod og yferuañ hana. A
þm sama tijma talade DROTTIN fyrer Esaiam son Amos og sagde.
a huers daglegur ouirdulegr klæd nadur
Far þu & leys þañ a Secken af þijnum lendū/ & drag þijn skoklæde burt af
þijnum fotum. Og hañ giørde so / Gieck nakenn og berfættur / Þa sagde
DROTTIN.
Lijka so sm̄ þ miñ Þion Esaias geingr Naken & berfættr/til Merkis & Storundra þrig-
gia Aara/yfer Egiptū & Blaland. Eins so lijka mun Kongureñ j Assyria burt drijfa hina
Herteknu Egiptalandz/& burt drijfa bæde Vnga & Gamla/ Nakta og Berfætta af Mor- B
Egiptaland Blaland
landi/ medr alsberum Bakhlutū/Egiptalande til skamar. Og þr munu skelfast & skamast
sijn vegna Blalandz/vppa huert þr vonudu/Og þar j mot Blaland vegna Egiptalandz/
vt af hueriu þr hrosudu sier. Og þr jñbyggiarar þessarar Eyar munu seigia a þeim sama
tijma. Er þ vort traust/þangat ed vier flydum til hialpar/so ad vier frelsader yrdum fyrer
Kongenum j Assyria. Huersu finligaña erum vier vndankomner?

## XXI.

